**Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!**

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

**Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista**

32. tölublað | Þriðjudagur 29. ágúst 1978 | 7. árg. | verð kr. 100.-

# Atvinnuleysi

## Gróðahagsmunir atvinnurekenda gegn lífsafkomu verkafólks

Fjölda verkafólks hefur nú verið sagt upp í fiskiðnaði, og enn fleiri eiga atvinnuleysi á hættu um næstu mánaðamót. Þessar uppsagnir eru liður í aðgerðum atvinnurekenda til að þrýsta á um ráðstafanir til að tryggja óskertan gróðahlut sinn. Þrátt fyrir stöðugt "gengissig" telja SH og SÍS að krónan hafi ekki fallið nóg gagnvart dollar og vilja því fá 20% gengisfellingu. SH hefur hótað þeim frystihúsum hörðu sem ekki hafa sagt upp starfsfólk sínu og segjast hafa nóg lausafé. Þannig hefur t.d. Meitillinn í Þorlákshöfn, sagt upp starfsfólk sínu frá mánaðarmótum, þótt ekki geti hann borið við erfiðri fjárhagsstöðu heldur fékk hann "rautt ljós" frá SH og fór með í dansinn. Mörg þau frystihús sem nú kvarta um skort á lausafé hafa nýlega staðið í miklum fjárfestingum, eða hyggja á nýjar. Þannig hefur Ísbjörninn t.d. verið að byggja og stækka. Þegar mikill gróði er af fyrirtækjum, kemur það ekki verkafólkinu til góða, heldur notar eigandinn gróðann til fjárfestingar. Þegar svo gróðahlutfallið minnkar, er gengið á hlut verkafólksins til að rétta hlut auðmannanna.

Ekki geta frystihúsaeigendur kennt lélegum aflabrögðum um "erfiðleika" sína. Skipin hafa mokað upp fiski og mestur hluti hans hefur farið í frystingu. Markaðsverð erlendis hefur einnig verið mjög hátt að undanförnu. Ekkert hefur nú ~~heirst~~ heyrst frá atvinnurekendum um að stöðvun frystihúsanna spilli mörkuðum erlendis, en sem kunnugt er töldu þeir útflutningsbannið þjóðhagslega hættulegt af þeim sökum. Eflaust munu þeir þó vitna til þess í næstu barlómsherferð, að þeir hafi ekki náð sér eftir afleiðingar þessarar lokunar.

Hér ber allt að sama brunni. Horki er hráefnisskortur né sölutregða, auðmennirnir vilja bara hlutfallslega meiri gróða af fyrirtækjum sínum. Áður fyrr kröfðust atvinnurekendur beinna kauplækkanna og beittu verkbönnum í baráttu sinni. Slíkt kallaði á hörð andsvör verkafólks og baráttu sem oft lauk með því að atvinnurekendur biðu lægri hlut. En kapítalisminn hefur þróast og atvinnurekendur lært. Nú verða kauplækkanir í formi verðhækkanna, gengisfellinga, skatta og annarrar millifærslu fjármuna, sem hvergi sést á launaseðlinum. Sætti verkafólk sig ekki við slíkar aðgerðir lýsa atvinnurekendur yfir bágu ástandi og segja verkafólkinu upp. Svo er sagt við verkafólk: Veljið nú - skert kaup eða ekkert.

Gegn þessu hefur verkafólk á einstaka vinnustöðum reynt að snúast, eins og t.d. í Ísbirninum, en þær aðgerðir hafa ekki náð víðtækri skipulagningu. Aðgerðir þessar hafa líka verið illa séðar af forystu verkalýðshreyfingarinnar. 8. þing VMSÍ samþykkti að hafa skyldi aukin samráð við verkafólk um mótun kjarastefnu og aðgerðir til að fylgja henni fram. Framkvæmdin er hins vegar sú að hvergi er leitað álits verkafólks. Hins vegar er makkað milli flokksbrodda í forystuliði verkalýðshreyfingarinnar. Verkalýðsforystan hefur ekki þorað að grípa til neinna harðra aðgerða, af ótta við að þær geti komið til með að reynast væntanlegri ríkisstjórn "þeirra" erfiðar. Þetta á við jafnt forystuna í Sjálfstæðisflokki, Alþýðuflokki, og Alþýðubandalagi. Allir eru þeir þægir við "sína" ríkisstjórn en nota andstöðu við aðgerðir hinna sem skrautfjöður í eigin hatt. Þessir forystumenn bregðast ekki við uppsögnunum á þann hátt að verja lífskjör verkafólks, heldur ~~not~~færa sér þær í pólitísku eiginhagsmunaskyni.




Frystihús Ísbjarnarins á Seltjarnarnesi, hluti af eignum sem metnar eru á rúma þrjá miljarða króna

Þegar þetta er skrifað berast þau tíðindi að þeir þrír flokkar sem eru að berja saman ríkisstjórn, hafi náð óformlegu samkomulagi við ASÍ um ýmsa mikilvæga þætti launamála. M.a. á að lengja núverandi samningstíma og engar grunnkaupshækkanir að koma á honum, heldur aðeins einhverskonar "verðbætur". Ef Alþýðubandalagið hefði ekki verið með í þessu ráðabruggi hefði það víst réttilega hrópað upp um svik. Það væri því ekkert fráleitt hjá stjórnmálarefunum að láta Alþýðubandalagið tala verkalýðshreyfinguna til, hætta svo við ríkisstjórn og taka nýja samkomulagið inn í hægri stjórn. Hvað gerir verkalýðsforystan þá?? Varla getur hún sagt að samigrauturinn sé ótætur úr skál hægristjórnar eftir að hafa þegið hann með góðri lyst úr skál vinstristjórnar?!

Verkafólk verður að krefjast funda á vinnustöðunum og í verkalýðsfélögunum til að ákveða stefnu og aðgerðir.



Á sama tíma og Ísbjörninn hefur ekki "efni á" að greiða starfsfólki sínu laun, er hann að festa kaup á hlut í þessu 3.5 milljarða skipi.

Framhald á síðu 3.

# Heildsalagróðinn

Undanfarna daga hefur verið mikið rætt og ritað um verðlagsmál. Reyndar kom þetta mál upp fyrir nokkrum árum síðan, en það hefur greinilega kafnað í fæðingu. Það sem málið snýst um er að komist hefur upp að íslenskir heildsalar virðast reyna að kaupa inn dýrustu vörurnar sem eru á markaðinum. Þetta gera þeir til að auka gróða sinn, því eftir því sem varan er dýrari, því meiri er álagningin og gróðinn af vörunni. Eitt-hvað hefur verið þrýst á verðlagsyfirvöld undanfarið, því þau hafa verið að kanna þessi mál undanfarið. Stuttu eftir að farið var að skrifa um þessi mál í blöðin, þá gaf Samband íslenskra samvinnufélaga út þá yfirlýsingu að þeir vildu fá sundurliðun á því hvaða vörur það væru sem keyptar væru inn á þessum forsendum. Ekki er laust að sá grunur læðist að manni að þarna hitti skrattinn ömmu sína og ekki nóg með það. Hann er að reyna að fara á bak við hana. Þetta kemur auðvitað við kauninn á SÍS-auðvaldinu, sem er vafalaust stærsti innflytjandinn hér á landi. SÍS er einokunarhringur á heimsmælikvarða. Þeir hafa mjög fullkomið umboðsmanna kerfi erlendis og geta í skjóli þess farið á bak við bæði verðlags-og gjaldeyrisyfirvöld. Ekkert er einfaldara fyrir þessa auðhringa að búa til einhverjar stórar tölur á tollskýrslum, þótt að varan sé í raun ódýrari en þeir gefa til kynna. Síðan er gróðinn annaðhvort lagður í nýjar verksmiðjur úti, eða lagður inn á banka. t.d. Finandsbanken. Þetta verður æ augljósara þegar það er haft í huga að einokunarhringur eins og SÍS og SH (Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna) flytja út hálfunnar vörur, og láta síðan sínar eigin verksmsiðjur úti fullvinna vörunna.

Þessir auðhringar hvaða nöfnum sem þeir kunna að nefnast eiga allt ferlið, þ.e.a.s. þeir kaupa vöruna óunna og hafa síðan verksmiðjur víðs vegar til að fullvinna hana. Bæði heima og erlendis. Ef við lítum betur á SÍS t.d. þá kaupa þeir af bændunum óunna vöruna og þeir fullvinna hana og selja síðan bændunum allt það sem þeir þurfa til að geta framleitt hana. Verðlagsyfirvöld hafa hingað til trassað að taka þessi mál upp. Íslensk alþýða verður að krefjast þess að þau taki þessi mál fyrir og sýni fram á hvaða fyrirtæki það eru sem stunda þetta athæfi.

# Stjórnarmyndunar viðræðurnar

Nú eru tveir mánuðir liðnir frá kosningum og enn hefur ekki tekist að koma saman nýrri ríkisstjórn. Úrslit kosninganna gáfu það til kynna að ekki myndi verða auðvelt að mynda nýja stjórn á grundvelli þeirra. Sú hefur líka orðið raunin á, að enn hefur ekki tekist að fá fram neinn sameiginlegan grundvöll. Slíkt er raunar ekkert skrýtið ef við skoðum loforð þeirra frá því fyrir kosningar. Þá ætti vinstristjórn að vera útilokuð, ekki aðeins vegna herstöðvamálsins, heldur ekki síður vegna efnahagsmálanna. Sigurvegarar kosninganna, Alþýðuflokkurinn og Alþýðubandalagið lofuðu báðir fyrir kosningar að kjarasamningarnir yrðu aftur settir í gildi. Auk þess voru ýmis önnur loforð sett fram af þessum svokölluðu verkalýðsflokkum. Þvert á þessa stefnu var stefna Framsóknarflokksins. Nú hafa flokkarnir dregið svo stjórnarmyndunina að fólk man ekki lengur hvers vegna það kaus þennan flokkinn frekar en hinn. Og það er líka megin tilgangurinn með því að draga á langinn myndun nýrrar stjórnar. Það verður að rugla dómgreind almennings og fá fólk til að halda að það hafi einmitt verið vinstristjórn með þessum grundvelli sem það óskaði sér. Alþýðubandalagið sagði fyrir kosningar að ekki kæmi til greina að það færi í vinstristjórn sem ekki hreyfði við herstöðvamálinu. Fjölmargir herstöðvaandstæðingar létu blekkjast og trúðu því að Alþ.b myndi standa við gefin loforð. Nú er engu líkara en Þjóðviljinn og þingliðið hafi aldrei heyrt um að hermálið væri úrslitaatriði. Lúðvík segir okkur þvert á móti að í raun hafi

Framhald á baksíðu.

LEIÐARI

# Auðvaldsþjóðfélagið er ómanneskjulegt

Nú undanfarnar vikur hefur það komið æ betur í ljós hversu gildismat manna er misjafnt. Þetta gildismat er þó ákvarðað af því þjóðfélagskerfi sem við lifum öll við.

Auðvaldsþjóðfélagið byggir annars vegar á svokölluðu pólitísku frelsi, en hins vegar á lögmálum kapítalískra viðskiptahátta og markaðar, sem ekki aðeins ákvarðar efnahagslífið, heldur einnig öll félagsleg samskipti manna.

Eigendur auðmagnsins geta keypt vinnuafl og látið það ávaxta auð sinn. Launavinnumaðurinn eigandi vinnuaflsins, hefur hins vegar ekkert annað að versla með en sitt eigið vinnuafl og það selur hann í samræmi við lögmál markaðarins, eigi hann ekki að svelta.
Í þessu hagkerfi endurspeglast mismunandi gildismat manna og stéttaskipting. Það er auðmagnið sem stjórnar og drottnar yfir vinnuaflinu, samansafn dauðlegra hluta er verðmætara en vinnuaflið og mannlegir verðleikar.

Hagkerfi auðvaldsins hefur verið svona allt frá upphafi þó vissir þættir þess hafi tekið nokkuð miklum breytingum, en þó síður en svo til góðs. Aukin miðstýring og upphleðsla auðmagns er ein afleiðing þróunar auðvaldsþjóðfélagsins. Stór fyrirtæki einokunarhringir vaxa á meðan lítil og meðalstór fyrirtæki hellast úr lestinni. Jafnhliða þessu vex fámennistjórn auðmagnsins í þjóðfélaginu og styrkir völd sín með skrifstofuveldi vellaunaðra forstjóra, sem ekki eru lengur eigendur auðmagnsins. Þeir hafa því oft á tíðum meiri áhuga fyrir að stækka fyrirtækin og auka völd sín en beinlínis að auka gróðann.

Aukin upphleðsla auðmagnsins og pappírsveldis forstjóranna á sér einnig hliðstæðu í þróun verkalýðshreyfingarinnar. Hver verkamaður er meðlimur í stóru verkalýðsfélagi sem er stjórnað af skrifstofuveldi. Þannig hefur frumkvæðið á flestum sviðum verið fært frá einstaklingnum til máttugs skrifstofuveldis. Sífellt stærri hópur verður máttlítill einstaklingur í þessu valdakerfi auðvaldsins. Verkamaðurinn verður einskonar tannhjól í risavél auðvaldsframleiðslunnar, sem vel má sjá af.

Þessu er verkafólk á Íslandi æ betur að kynnast og fá reynslu af á öllum sviðum þjóðlífsins. Verkafólki er að skiljast að það liggja eðlilegar orsakir fyrir því að gildismat þess er annað en kapítalistanna.
Þess vegna rekur sig hvert á annars horn í allri félagslegri skipulagningu auðvaldsins. Þess vegna verður aldrei hægt að sætta sjónarmið verkalýðsinn og kapítalistans., með öðrum hætti, en svíkja verkalýðinn. Það er einmitt það sem hinir svokölluðu verkalýðsflokkar eru nú að gera. Á sama hátt og skrifstofuvald verkalýðsfélaganna beitir blekkingum til að gera verkamenn auðsveipaog útreiknanlega, gera stjórnmálaflokkarnir það líka. Þeir eru orðnir samskonar pappírsveldi og skrifstofuvaldið sem hugsar um ekkert annað en að auka sín eigin völd.



## Sameinum íslenska kommúnista í einn stjórnmálaflokk

# Opið bréf frá EIK ml til KFÍ/ML

Reykjavík 23. 8. 1978.

Til miðstjórnar "KFÍ/ML"

EIK (m-l) barst bréf "Kommúnistaflokksins" dagsett 2. 8. 1978. Er það bráðabirgðasvar við opnu bréfi EIK (m-l) um skilyrði fyrir viðræðum og ef til vill sameiningu beggja samtakanna (sjá VBL. nr. 14.).

Bréf "KFÍ/ML"táknar ekkert nýtt, heldur er til þess fallið að teygja lopann. Meginatriði bréfs "KFÍ/ML" eru þessi:
1. "KFÍ/ML"telur það hæpinn grundvöll fyrir sameiningu að EIK (m-l) skuli líta á "flokkinn" sem hentistefnu-og endurskoðunarsinnuð samtök, sem sveiflast milli "vinstri" og hægri afstöðu. KFÍ/ML"telur forsendur sameiningar vera þær að EIK(m-l)-líti á "flokkinn" sem marx-leníníska kommúnistaflokk, enda líti "KFÍ/ML" á EIK(m-l) sem marx-lenínísk samtök.
2. "KFÍ/ML" álítur bréf EIK (m-l) bera vott um að horfið sé frá þeirri afstöðu EIK(m-l) -sem tekin var eftir að "flokkurinn" svaraði ekki sameiningargrundvelli EIK(m-l) að hafa ekki samvinnu við "KFÍ/ML" sem samtök.
3. "KFÍ/ML telur að til sameiningar samtakanna þurfi málefnalega og starfslega einingu, opinskáar og heiðarlegar viðræður, aukið samstarf og gagnkvæman skilning samtakanna í milli, samhæfingu stefnunnar ofl.
Í ljósi þessa óskar "flokkurinn" eftir sameiningarráðstefnu félaga samtakanna og ef til vill stuðningsmanna eða einhvers konar ráðstefnu beggja samtakanna.

Framkvæmdarnefnd miðstjórnar EIK(m-l) gerir eftirfarandi athugasemdir við þessi atriði:
1. Greining EIK(m-l) á "KFÍ/ML" er byggð á nákvæmri athugun á stefnu og starfi "KFÍ/ML" og forvera hans KSML. Sú greining er sannleikanum samkvæm og er reyndar besti mælikvarðinn á núverandi eðli og eiginleika "KFÍ/ML". Meðan "flokkurinn" þráast við að taka rétta afstöðu til kolrangrar og yfirleitt afturhaldssamrar stefnu og starfs KSML, meðan hann þráast við að gera upp við núverandi henti -og endurskoðunarstefnu er neikvæð afstaða okkar til "flokksins" rétt. Hins vegar gætu EIK m-l)horfið frá afstöðu sinni ef "KFÍ/ML"gerði upp við fortíð sína og röng atriði eigin stefnu og starfs. Og það er einmitt slíkt uppgjör sem EIK (m-l) og framsækið fólk heimtar. Komi það fram í raun og veru, tekur "flokkurinn"afgerandi skref yfir markalínuna sem skilur að marx-lenínismann / kenningar Maós Tsetungs annarsvegar og henti- og endurskoðunarstefnuna hins vegar. Við slíkar aðstæður er ekkert rangt við að EIK(m-l) stíli opið bréf um sameiningu með ákveðnum kröfum til hentistefnu og endurskoðunarsinnaðra samtaka þegar barátta marx-lenínismans / kenninga Maó Tsetungs og endurskoðunarstefnu fer fram innan þeirra.

Greining okkar á KSML og KFÍ/ML" er ófrávíkjanleg sem og núverandi afstaða okkar til "flokksins"meðan hann hjakkar í núverandi fari. Jafnréttisgrundvöllur samtakanna verður hins vegar til um leið og "KFÍ/ML" tekur afstöðu með greiningu EIK(m-l) og mati.
2. Bréf EIK(m-l)táknar alls ekki að samtökin vinni með, ræði við óopinberlega eða hafi samráð "KFÍ/ML" að svo komnu máli. Með bréfinu eru settar fram kröfur á hendur "flokknum" og honum gefið tækifæri til þess að sýna að hann sé kleifur samstarfsaðili. Við byggjum þessa hörðu afstöðu okkar á því að afhjúpa verði og marka andstæður milli marx-lenínismans og endurskoðunarstefnunnar af fullri festu. Skrif "KFÍ/ML" um"fjandskap, þroskaleysi, hroka, grunnfærni, og ábyrgðarleysi"EIK(m-l) breytir engu um þetta og kemur "flokknum" sjálfum í koll.
3. EIK(m-l) hafna skylyrðislaust öllum tillögum um samhæfingu stefnu, um viðræður samstarf, osfrv. fyrr en svar "KFÍ/ML" við opna bréfinu liggur fyrir. Auðvitað er samstarf, viðræður ofl. liðir í að sameina samtökin, en slíkar aðgerðir og sameining kemur aðeins til greina ef "KFÍ/ML" samþykkir í öllum höfuðatriðum um sameiningargrundvöll EIK(m-l) og alþjóðaályktunina sbr. opna bréfið.

Tillaga um sameiginlega félagaráðstefnu er ekki á dagskrá fyrr en eftir að svar "flokksins" við opna bréfinu hefur birst opinberlega.

EIK(m-l) hafa gefið út geysimikið magn prentaðs máls um stefnu og starf KSML/ "KFÍ/ML" og haldið allmarga fundi með fúlltrúum samtakanna (fjórir til á segulböndum). Ekkert af þessu hefur dugað til fulls. -Í stað endurtekningar á slíku t. d. á lokaðri félaga ráðstefnu, er nú krafist í síðasta sinn skýrra og altækra svara frá "KFÍ/ML". Þau ein geta sýnt að "flokknum"sé alvara og liggi gott til með tal sitt um sameiningu samtakanna.

EIK(m-l) eru að sjálfsögðu ávallt reiðubúin til þess að mæta "KFÍ/ML" á opnum kappræðufundum um sameiningu ísl. kommúnista.

EIK(m-l) bíða svara ykkar við opna bréfinu til 1. okt. n. k. að öllu óbreyttu.

f. h. framkvæmdanefndar
miðstj. EIK(m-l)
Ari Trausti Guðmunds.

# Svar miðstjórnar KFÍ/ML

Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML hefur ákveðið að birta í Stéttabaráttunni öll bréf sem nú fara á milli KFÍ/ML og EIK(m-l). Vill framkvæmdanefndin með þessu gefa öllum þeim sem hafa áhuga á að fylgjast með framvindu mála, tækifæri til þess.

Ennfremur stendur þeim sem sem vilja taka þátt í baráttunni fyrir sameiningu marx-lenínista, til boða að taka þátt í umræðum með félögum KFÍ/ML. Þeir sem hafa áhuga eru beðnir að hringja eða koma í Rauðu Stjörnuna milli kl. 4-6. virka daga.

Að lokum vill framkvæmdanefndin hvetja alla framsækna aðila til að gefa sameiningarmálinu gaum og taka virkan þátt í umræðunni og starfinu sem framundan er. Það er mikilvægt að sú umræða sem nú fer fram nái til þeirra marx-lenínista sem standa utan samtaka og að þeir leggi sitt af mörkum til að þróa hana áfram.

Varðandi bréf EIK(m-l).

Bréf það sem hér fer á eftir barst okkur þann 28. 8. 1978. Við hvetjum lesendur blaðsins til að kynna sér það og einnig fyrri bréf, sem birtust í síðasta tbl. Við viljum benda á þann mun sem er á afstöðu EIK(m-l) í þessum tveimur bréfum, sbr. þessar tilvitnanir: ". . d)Samstaða sé milli samtakanna í öllum höfuðatriðum um kafla 2, 3, 4 í sameiningargrundvelli EIK(m-l) og um alþjóðaályktunina (Liðir a og b hér að framan.)
e)Samstaða sé milli samtakanna um skipulag og starfshætti kommúnistaflokksins.
f)Samstaða sé milli samtakanna um grundvallarstefnu og baráttuaðferðir í baráttumálum dagsins á sviði andheimsvaldabaráttu, verkalýðsbaráttu kvennabaráttu og námsmannabaráttu, sem og hvað viðhorf varðar til aðferðar samfylkingar almennt.".

Síðan kemur tilvitnun í seinasta bréfið". . Auðvitað er samstarf, viðræður ofl liðir í að sameina samtökin, en slíkar aðgerðir og sameining kemur aðeins til greina ef "KFÍ/ML" samþykkir í öllum höfuðatriðum um sameiningargrundvöll EIK. (m-l) og alþóðaályktunina sbr. opna bréfið.".

Að öðru leyti teljum við þetta bréf ekki þess eðlis að ástæða sé að svara því. Framkvæmdanefndin sér ekki ástæðu til að rökræða um orðalag, eða að túlka bréf EIK(m-l) fyrir lesendum þess. Það skýrir sig sjálft.
Umræður og undirbúningur svara við fyrsta bréfinu fer nú fram innan KFÍ/ML. Þetta bréf breytir engu um það starf og við munum taka mið af fyrra bréfinu er við svörum.


HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

STYKKISHÓLMUR
Gísli Hjaltason
P. O. box 63

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11N:220
222 46 LUND.

# Aðgreining þriggja heima er vísindaleg marxisk úttekt a núverandi heimsástandi

Kenning Mao tse tung um hina þrjá heima, hefur valdið miklum deilum innan heimshreyfingar marx-lenínista. Hæst risu þessar deilur, nú fyrr í sumar með formlegum vinslitum milli Kínverja og Albana. Albanir hafa haldið því fram að þessi vísindalega greining Maós á ástandinu í heiminum í dag sé endurskoðunarsinnuð, og til þess eins að villa alla einlæga baráttusinna fyrir frelsi og sósíalisma af réttri leið. Í ljósi alls þessa er mjög mikilvægt að allir and-heimsvaldasinnar og baráttusinnar fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar kynni sér mjög vel þær kenningar sem liggja til grundvallar fyrir þessum þessum ágreiningi. Ritnefnd Stéttabaráttunnar vonar að þessi grein sem tekinn er úr ritstjórnargrein Dagblaðs Alþýðunnar í Kína geti orðið kveikja að áframhaldandi rannsókn á deilum þessum.

Hér birtist 2. hluti þessar greinar. Fyrsti hluti birtist í síðasta tölublaði. Lesendur taka eflaust eftir tilvitnunarnúmerunum í greininni, en í lok þess kafla mun listi yfir það verða birtur.

Stuttu fyrir dauða sinn talaði Lenín um að sósíalisminn myndi ófrávíkjanlega sigra um allan heiminn, og þá hélt hann fast við þetta: "Þegar öll kurl koma til grafar munu úrslit baráttunnar ráðast af þeirri staðreynd, að Rússland, Indland, Kína os.f. telja saman yfirgnæfandi meirihluta íbúa jarðarinnar. Og það er einmitt þessi meirihluti sem á allra síðustu árum hefur dregist sérstaklega hratt með í baráttunni fyrir frelsun, þannig að með tilliti til þessa getur ekki ráðið hinn minnsti efi um hver úrslit heimsbaráttunnar verða. Frá þessum sjónarhóli séð, er fullkominn sigur sósíalismans fyllilega og algerlega tryggður."[18] Það er augljóst, að engir nema sovésku sósíal-heimsvaldasinnarnir sem fullkomlega hafa svikið málstað Leníns, halda því fram að hann hafi "yfirgefið stéttarlegar grundvallarreglur",

"prédikað afturhaldssamar kenningar geo-pólitíkur."[19] osf. þegar hann setti þessar skoðanir fram, því þær eru gegnsýrðar af alþjóðahyggju öreiganna og trú á sigur kommúnísku hreyfingarinnar. Hvað kenna þessi orð Leníns okkur? Við ættum í það minnsta að draga eftirfarandi lærdóma: Eins og Lenín gerði ættum við að fagna og styðja frelsishreyfingar kúgaðra þjóða í Asíu, Afríku, Latnesku Ameríku og annars staðar og líta á þær sem mikilsverðan þátt í sósíalískri byltingarhreyfingu heimsöreiganna Við ættum að skipta löndum veraldarinnar nú í þrjá nýja hópa á grundvelli hinna nýju alþjóðlegu stéttaafstæðna sem ríkjandi eru og finna fullkomna og algera trú á endanlegan sigur sosialismans í gervallri veröldinni, í sameinaðri baráttu hinnar alþjóðlegu öreigastéttar og alþýðu þriðja heimsins, sem telur meira en 70 hundraðshluta íbúa jarðarinnar.

Eftir dauða Leníns, varði Stalín þá kenningu hans, að öreigarnir verði að sameinast kúguðu þjóðunum og benti á, að þjóðlegar frelsishreyfingar ættu að ná til allra afla sem standa gegn heimsvaldasinnaðri yfirgengni, burtséð frá stéttarstöðu þeirra og pólitískri afstöðu. Þessu til dæmis benti hann á það að þótt emírinn af Afghanistan héldi fast við konungdæmið sem stofnun og leiðtogar egypsku þjóðfrelsishreyfingarinnar væru af borgaralegum toga og andstæðingar sósíalismans, væri sú barátta sem þessir heyðu fyrir frelsi þjóða sinna, hlutlægt séð byltingarbarátta, því hún yrði til þess að "veikja, leysa upp og grafa undan heimsvaldastefnunni!"[20]

Þegar Stalín gagnrýndi trotskýska andstöðuarminn, benti hann á þetta: "Syndir andstöðunnar í þessu máli, eru þær að hún hefur algerlega yfirgefið stefnu Leníns og aðhyllist stefnu II. Alþjóðasambandsins, sem afneitar gagnseminni af því, að styðja byltingarstríð sem háð eru af nýlendum gegn heimsvaldastefnunni."[21]

Stalín talaði oftar en einu sinni um að heimur sósíalismans og heimur kapítalismans stæðu andspænis hvor öðrum en þegar hann gerði hlutstæða greiningu á pólitískum öflum heimsins á mismunandi tímaskeiðum gekk hann út frá heildarástandinu í hinni breytilegu alþjóðlegu stéttabaráttu hverju sinni. Þegar árið 1927, á 15. þingi Kommúnistaflokks Sovétríkjanna (b), gerði hann eftirfarandi skiptingu á þeim pólitískum öflum veraldarinnar sem þá voru fyrir hendi: "Dæmið sjálf. Af 1.905 millj. íbúa alls heimsins, búa 1.134 milljónir í nýlendum og háðum löndum, 143 millj. búa í Sovétríkjunum, 264 millj. búa í löndum sem hafa milliaðstöðu, en aðeins 363 millj. búa í stóru heimsvaldalöndunum, sem kúga nýlendurnar og háðu löndin."[22]. Í mars 1939, á 18. þingi K.F.S.R. (b) skilgreindi hann Þýskaland, Ítalíu og Japan sem árásaraðila, en Bretland, Frakkland og Bandaríkin sem ekki árásargjörn lönd. Strax eftir að Hitler hafði ráðist á Sovétríkin árið 1941, sá Stalín til þess, að Sovétríkin urðu bandamaður Bandaríkjanna, Bretlands og annara landa, í því skyni að mynda andfasískar herbúðir. Árið 1942 sagði hann, að "það mætti nú líta á það sem hafið yfir gagnrýni, að í rás stríðsins sem Hitlers-Þýskaland hafði neytt þjóðirnar út í, hafi orðið róttæk aðgreining aflanna og sköpun tveggja andstæðra herbúða: herbúðir ítalsk-þýska samstarfsins og herbúðir ensk-sovésk-ameríska samstarfsins" og að "af því leiði að rökfræði staðreyndanna sé sterkari en sérhver önnur rökfræði."[23] Auðvitað er engin ný ítalsk-þýsk samvinna eða ný bresk-sovésk-amerísk samvinna fyrir hendi í heiminum nú. Í stað þess eru fyrir hendi tvö drottnunargjörn stórveldi, Sovétríkin og Bandaríkin og samfylking alþýðu heimsins gegn þeim.



Það sem við viljum leggja áherslu á í þessu sambandi, er að atferli Stalíns hafði á engan hátt áhrif á stöðu Sovétríkjanna sem sósíalísks ríkis né heldur tálmaði þróun byltingarbaráttu hinnar alþjóðlegu öreigastéttar. Þvert á móti var þessi athöfn hans hin eina rétta til þess að verja grundvallarhagsmuni hinna sósíalísku Sovétríkja og hinnar alþjóðlegu öreigastéttar. Getum við sakað Stalín um að hafa ekki fylgt nákvæmlega formúlunni auðvaldsheimur andspænis sósíalískum heimi, í þessu tilviki?

## Þriðji hluti

Getum við efast um mikilvægi greiningar pólitískra afla veraldarinnar í andfasískar herbúðir og fasískar herbúðir, á þessum tíma? Getur skipting pólitískra afla heimsins verið rétt ef hún byggir ekki á rökfræði staðreyndanna, heldur á rökfræði sem gengur í berhögg við staðreyndirnar?

Hverfum rétt sem snöggvast aftur til kenningar Stalíns í ritverki hans "Efnahagsleg vandamál sósíalismans í Sovétríkjunum", sem hann skrifaði ári áður en hann dó.: "Því er haldið fram, að móthverfurnar milli kapítalisma og sósíalisma séu sterkari en móthverfurnar meðal auðvaldslandanna. Þetta er auðvitað rétt, fræðilega séð." Þó hófst seinni heimsstyrjöldin ekki sem styrjöld gegn Sovétríkjunum, heldur sem styrjöld milli auðvaldslanda." "Af þessu leiðir, að barátta auðvaldslandanna um markaði og löngun þeirra til að brjóta andstæðinga sína á bak aftur, reyndist í raun og veru yfirsterkari þeim móthverfum sem eru milli herbúða kapítalismansog herbúða sósíalismans." Ennfremur benti hann á, að "óhjákvæmileiki styrjalda milli auðvaldslandanna heldur áfram að vera í gildi."[24]

Í dag eru það fyrst og fremst milli Bandaríkjanna, sem er auðvaldsland, og Sovétríkjanna þar sem kapítalisminn hefur verið endurreistur, sem heimsstyrjöldin er óhjákvæmileg. Augljóslega er sú kenning, að rökfræði staðreyndanna sé allri annari rökfræði yfirsterkari, rétt ennþá.

Það er því ljóst, að allir byltingarsinnaðir læriferður öreigastéttarinnar skiptu pólitískum öflum heimsins, á þann hátt, að þeir studdust við hlutlæga og skarpskyggna skilgreiningu á heildarástandi hinnar alþjóðlegu stéttabaráttu á ýmsum tímaskeiðum, í stað þess að aðhyllast einhverja óbreytilega og fasta formúlu.

Aðgreining Maó formanns, mesta marxista vorra daga, á pólitískum öflum samtímans í þrjá heima, er söguleg afurð skapandi beitingar hans á marxismanum um áraraðir, við athugun og skilgreiningu þeirrar þróunar og breytinga sem grundvallarmóthverfur veraldarinnar hafa tekið. Í ritverki hans "Um nýlýðræði" sem birt var 1940, viðheldur Maó formaður, ver og þróar þær kenningar Leníns og Stalín að eftir fyrri heimsstyrjöldina og sérstaklega eftir Októberbyltinguna, sé sérhver þjóðfrelsishreyfing hluti af sósíalískri heimsbyltingu öreiganna. Hann benti á þetta í skýrum orðum: "Það gildir einu hvaða stéttir, flokkar eða einstaklingar kúgaðrar þjóðar ganga í liðssveitir byltingarinnar, og það gildir einu hvort þeir eru andstæðingar heimsvaldastefnunnar. Þá verður bylting þeirra hluti heimsbyltingar öreiganna og þeir verða bandamenn hennar."[25] Samræmdist þessi skilgreining Maó formanns hlutlægum raunveruleika alþjóðlegrar stéttabaráttu? Greinilega gerði hún það. Enginn getur efast um þetta, því það er einmitt út frá þessum sjónarhóli, sem Kommúnistaflokkur Kína myndaði samfylkingu við öll andheimsvaldasinnuð öfl, þar meðtalinn þjóðernissinnaðan flokk Chiang Kai-sheks, á þeim dögum er Japan gerði heimsvaldasinnaða innrás í Kína, og vann þess vegna sigur í stríðinu gegn Japan.

Framhald í næsta blaði.



Framhald af forsíðu.
ATVINNULEYSI:

Gegn uppsögnum er m.a. hægt að beita yfirvinnubanni útflutningsbanni, og stöðvun annarra þátta starfseminnar. Það verður að snúast af hörku gegn öllum tilraunum ASÍ til að semja um skerta samninga. Samningsvaldið liggur hjá verkalýðsfélögunum og um það verðum við standa vörð. Það verður nú æ ljósara hvílíka nauðsyn ber til að skipta um stjórn í verkalýðshreyfingunni og kjósa menn sem gæta hagsmuna stéttarinnar í stað þeirra sem notfæra sér hreyfinguna til að lyfta undir rassinn á sjálfum sér til pólitískra metorða.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
32. tbl. 7. árg. 29. 8. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.


# Samtök herstöðvaandsæðinga:

## Treystum baráttuna gegn Sovésku heimsvaldastefunni



Það mátti sjá á fundi Samtaka herstöðvaandstæðinga við sovéska sendiráðið 21. ágúst, að baráttan gegn sovésku heimsvaldastefnunni er nú í örum vexti á Íslandi. Fundurinn var sá langfjölmennasti sem haldinn hefur verið af þessu tilefni síðan þessi barátta hófst. Það er augsýnilegt að fólk gerir sér nú í síauknum mæli grein fyrir þeirri nauðsyn að efla baráttuna gegn ört vaxandi útþenslu- og yfirgangsstefnu Sovétríkjanna jafnhliða því sem baráttan gegn Nató og hernum er treyst og efld. Vegna þessarar stöðu sem nú er komin upp ber brýna nauðsyn til að tekin verði upp umræða um það hvernig framhald þessarar baráttu verði best skipulagt, svo sem stærstur árangur náist.

Það er ljóst að SHA eru rétti vettvangurinn fyrir þessa umræðu og þau geta sameinað innan sinna vébanda alla þá sem í raun vilja berjast fyrir brottför hersins, úrsögn úr Nató og gegn sovésku heimsvaldastefnunni. SHA eru sá aðili sem í dag sameinar innan einna samtaka alla þá aðila sem tilbúnir eru til að starfa í baráttunni gegn allri heimsvaldastefnu í hvaða mynd sem hún birtist og hverjir sem heimsvaldasinnarnir eru.

21. ágúst-hreyfingin ( í fyrra 21. ágúst-nefndin) var stofnuð í kringum aðgerðir og baráttu gegn sovésku heimsvaldastefnunni og innrásinni í Tékkóslóvakíu. Hreyfingin og aðgerðir hennar eru góðra gjalda verð svo langt sem það nær. Hitt er svo annað mál að áhrifamáttur þessarar hreyfingar er engan veginn nægur þessari baráttu. Baráttan gegn sovésku heimsvaldastefnunni verður ekki unnin á einum mánuði ár hvert, heldur er þetta barátta sem skipuleggja verður og vinna að allt árið. 21. ágúst-hreyfingin veldur engan veginn því verkefni að skipuleggja þessa baráttu nægilega vel, né heldur að færa hana út í þeim mæli sem nauðsynlegt er ef einhver umtalsverður árangur á að nást. Þess utan takmarkast barátta 21. ágúst-hreyfingarinnar fyrst og fremst við baráttu gegn sovésku heimsvaldastefnunni, en það er einmitt brýnt að tengja þá baráttu alhliða baráttu gegn allri heimsvaldastefnu og sérstaklega við höfuðverkefni andheimsvaldabaráttunnar á Íslandi; baráttuna gegn hernum og veru Íslands í Nató.

SHA hafa það á sinni stefnuskrá að berjast gegn allri heimsvaldastefnu. Þessi barátta er þó engan veginn nógu vel skipulögð og það hlýtur að verða eitt af meginverkefnum næstu landsráðstefnu SHA, sem haldin verður í október, að treysta skipulag baráttunnar og marka skýrari afstöðu til baráttumálanna. Eitt veigamesta atriðið í þessu sambandi er að sameina til baráttunnar öll þau öfl sem berjast vilja gegn heimsvaldastefnunni. Það er einnig nauðsynlegt að gera sér grein fyrir því að þetta kostar mikla vinnu og baráttu í SHA og þess er ekki að vænta að fullur árangur náist í fyrstu lotu. Herstöðvaandstæðingar verða að sameinast um meginþætti baráttustefnunnar, en smærri atriði verður að leysa á lengri tíma með umræðum og samvinnu allra félaganna.

# Stjórnarmyndunarviðræður

Framhald af forsíðu.

verkafólk viljað fá vinstristjórn sem gerði efnahagsráðstafanir fram að áramótum, slíka stjórn vill Alþb. og fyrir það vannst sigur þess í síðustu kosningum Eftir því sem frá kosningum líður, virðast fleiri sannfærast um að svona hafi þetta einmitt verið. Í þessu tilviki hefur tíminn unnið gegn herstöðva andstæðingum og Alþb hefur fengið næði til að vinna svik sín. Það þýðir lítið fyrir forystu Alþb að reyna að svívirða Alþýðuflokkinn í þessu máli, hann sagði þó fyrir kosningar að hann styddi veru Íslands í Nato og vildi hafa herinn hér. Þessu var þveröfugt farið með Alþb og ætti það að sjá sóma sinn í að styðja enn frekar kröfur herstöðvaandstæðinga, sem einnig eru kröfur ASÍ og VMSÍ. Ef Alþýðubandalagið gengur til samstarfs við Alþýðuflokkinn eða Framsókn og hreyfir ekki við hermálinu og kákar við efnahagsmálin til þess eins að bæta stöðu frystihúsaeigenda, þá hafa þeir svikið öll stefnumál sín. Slíkur flokkur á ekki skilinn stuðning verkafólks, heldur aðeins fyrirlitningu.

Kommúnistaflokkurinn benti á það fyrir kosningar að svona myndi þetta óhjákvæmilega fara og engu væri að treysta af loforðum Alþb. En slíku var ekki trúað í júní sem nú er að sannast réttum tveim mánuðum síðar.

Alþfl stóð gegn öllum kröfum og baráttu SHA og hlaut því ekki stuðning herstöðvaandstæðinga. Alþb aftur á móti sagði að eina leiðin til að koma málinu í höfn væri að kjósa Alþb. Nú er að koma í ljós að með því að kjósa Alþb hafa stöðvaandstæðingar síður en svo náð nokkrum árangri.




Óla Jó "sáttasemjaranum mikla" virðist vera að takast að mynda ríkisstjórn. Herinn á að vera. Verkafólk kemur til að búa við skertan kaupmátt.



Verkafólk í frystiiðnaðinum býr við ekkert atvinnuöryggi. Því er sagt upp allt eftir geðþótta atvinnurekendans.

líkingu við það.

Vonir þær sem verkafólk og aðrir bundu við Alþb hafa nú brostið og svikin eru augljós. Jafnvel aðeins það að setja fram grundvöll eins og þann sem Lúðvík hefur nú gert, sýnir að Alþb er í engu að treysta. Það er ekki verið að bjarga einu eða neinu. Frystihúsaeigendur eru aðeins að nota tækifærið meðan viðræður standa yfir, til að þrýsta á að tekið verði tillit til hagsmuna þeirra. Um leið og búið er að mynda nýja stjórn verða uppsagnirnar dregnar til baka eins og ekkert hafi skeð annað en að atvinnurekendur hafa unnið enn einn sigurinn.

Allar líkur eru á því að herstöðvamálið sé nú ver á vegi statt en áður. Forysta Alþb ætlar sér greinilega að svæfa málið og koma allri hreyfingunni fyrir kattarnef með þessari svokölluðu vinstri stjórn. Nú getum við byrjað að búa okkur undir að Alþb forystan reyni á allan hátt að slæva baráttuna og færa hana inn á tilgangslausar brautir í stíl við fataskiptalausnir Framsóknar á sínum tíma. Nú verður það sennilega látið heita "efnahagsleg einangrun" eða eitthvað í

Öllum ætti að vera ljóst eftir að hafa hlustað á forystu Alþb lýsa stefnumálum væntanlegrar vinstristjórnar, að hún er í engu samræmi við óskir langflestra þeirra sem kusu það í síðustu kosningum. Hvernig sem við lítum á þessi mál, komumst við ekki að annari niðurstöðu. Í vinstristjórnar viðræðunum núna er verið að svíkja, ekki aðeins herstöðvaandstæðinga, heldur einnig verkalýðssamtökin sem með ályktunum sínum fyrir rúmum þremur vikum voru að ítreka kröfur sínar.

Enn einu sinni hefur það sannast að verkafólk getur í engu treyst á gömlu flokkana, þeir hafa allir svikið endanlega sanna verkalýðsstefnu. Verkafólk er ekki að vinna neinn sigur með vinstristjórnar viðræðunum, það er þvert á móti að innsigla að enn eitt skrefið er stigið aftur á bak.